# Úr dularheimum

I

## Fimm æfintýri

Ritað hefir ósjálfrátt Guðmundur Jónsson



Reykjavík
Ísafoldarprentsmiðja
1906

# Úr dularheimum

I

## Fimm æfintýri

Ritað hefir ósjálfrátt Guðmundur Jónsson



Reykjavík
Ísafoldarprentsmiðja
1906



*Sú löngun, að vori', ykkur vörn*
*Sé mót vetrinum, elsku-börn.*
*Það fýkur í flestöll skjólin,*
*Og — svo kemur sólin.*

*B. Thorarensen.*

26/3 '06

AMMA gamla sat á rúminu sínu og bar prjónana vandlega upp að augunum; hún var að taka upp lykkjuna, sem hafði fallið niður.

»Kondu hingað, Stína litla!« Og Stína litla kom og settist á skemilinn hennar. Hún átti von á sögu hjá gömlu konunni.

»En þú verður að steinþegja á meðan, Stína litla«. Svo byrjaði sagan:

Einu sinni var fátæk stúlka, frámunalega fátæk. Hún átti enga foreldra, engin skyldmenni og ekkert heimili. Enginn vildi taka hana, því að hún var svo ung og svo lítil, og gat auðvitað ekki unnið fyrir mat sínum. Og því

fékk hún engan mat og enga aðhjúkrun, nema ef var hjá þeim, sem voru ekki öllu efnaðri en hún sjálf.

En góða fólkið fátæka var líka miskunnsamt og það tók stúlkuna heim til sín og gaf henni að borða. Hún kallaði húsbændurna foreldra sína — og þau kölluðu hana dóttur sína.

»Aumingja litla stúlkan«, sagði Stína; »en eru til sona vondir menn, amma? Ætli það hafi þá ekki verið hann Þórður á Hnjúki, sem úthýsir öllum?«

»Hvað ert þú að blaðra, barn, um það sem þú veizt ekkert um; þegiðu nú, og taktu eftir sögunni; þa' va' rétt, si-sona«. Og amma gamla hélt áfram sögunni:

En svo kom sú tíð, að enn þá verr horfðist á fyrir litlu stúlkunni munaðarlausu. Fósturforeldrar hennar voru báð-

ir dánir og hún stóð ein uppi, niðurbeygð af sorg og leitandi að von, en sorgin yfir missinum og hugsunin um einstæðingsskapinn myrti allar vonir hennar í vöggunni og loksins hætti hún að fá vöggu handa vonunum sínum. Þær þurftu hennar ekki lengur við.

Nú varð hún að yfirgefa gamla heimilið sitt og hélt af stað með miklum harmi og mörgum tárum.

Hún mætti engri blíðu af mönnunum, en sólin sá litlu stúlkuna og kendi svo undurmikið í brjósti um hana. Svo sendi hún henni tvo geisla, sinn á hvort auga, og geislarnir þurkuðu tárin. Hún hætti að gráta og grét ekki — þangað til sólin settist. En þá vöknaði henni um augun, aumingja munaðarleysingjanum allslausa. Og tárin féllu ótt og títt, hraðar og hraðar, viðstöðulaust, runnu

niður eftir ungu kinnunum hennar, svo ótt og svo þungt, eins og þau hefðu aldrei gert neitt slíkt fyr, eins og þeim væri þetta svo mikið nýnæmi.

Hún var orðin dauðþreytt, þegar hún kom heim að bæ einum og bað að lofa sér að vera. En bæjardyrunum var skelt aftur fyrir framan hana, og þarna stóð hún ein úti í kvöldnepjunni og vetrarhörkunni.

»Amma! Þetta hefir hlotið að vera hann Þórður á Hnjúki eða hùn Gróa gamla. Það úthýsa engin nema þau«, sagði Stína litla.

»Eg hætti að segja þér söguna«, sagði amma gamla, »ef þú ekki þegir; þú feldir niður fyrir mér lykkjuna með þessu þvaðri. Ekki nema það þó!« Og svo tók amma gamla upp lykkjuna og hélt áfram sögunni:

Litla stúlkan hélt áfram, þangað til hún kom að stórum steini. Litla stúlkan settist undir hann. Hríðin lamdi utan rifnu flíkurnar hennar. Það gerði nú ekki svo mikið til, en hún ætlaði alveg að gera út af við kinnarnar hennar litlu. Mikið skelfing var hríðin vond, að leggjast á hana svona litla og svona fátæka og svona einstæða. »Hvað hríðin er mikil og hvað eg er lítil«, hugsaði litla stúlkan — og henni fanst bylkornin verða enn þá stærri við það. »Jæja«, sagði litla stúlkan, »þú ert annars lítil, en ég er mikil, því ef þú værir svona lítið barn, eins og ég, og ég væri hríð, eins og þú, þá gæti ég farið svona illa með þig. Það er engin frægð« — Og henni fanst hríðin minka og henni sjálfri fara að líða betur — já, áreiðanlega leið henni betur, — henni leið

vel — fjarska vel. Hríð! Bylur! Mikil þó dæmalaus vitleysa! Að hríðin væri að berja andlitið á henni! — Er ða' vit? Bylur! Hríðarkorn! Eg held nú síður. Það voru alt saman blóm, sem drifu að andlitinu hennar. Og hvað ilmurinn var yndislegur! Nei, þetta er ekki amaleg hríð! —

En svo komu einhverjir til hennar og héldu á blómum.

»Nei, komið þið sæl, mamma og pabbi!« sagði stúlkan; hún sá þarna aftur fósturforeldra sína. —

»Ha, erum við heima?« spurði stúlkan; henni fanst alt jafn-vinalegt og meðan hún átti heima hjá þeim. Jafnvinalegt! Nei, þúsund — þúsund sinnum vingjarnlegra! Og það var líka von, því að hún var hjá guði. Og englarnir komu í hópum til hennar, og allir

vildu verða fyrstir til að rétta henni blómin, því að hún var svo góð stúlka.

Nú misti amma gamla niður lykkju og gekk út að glugganum til að taka hana upp.

»Já, amma! Hvað so? Hvað so, amma?«

Amma gamla settist aftur á rúmið og hélt áfram sögunni.

»Hvað so, amma? Hvað so?«

Já, svo var litla stúlkan alt af hjá guði, og þar grét hún aldrei og átti aldrei bágt. Hún hafði aldrei getað hugsað sér slíka sælu! Hún vildi bara að allir mætti njóta hennar. Og svo spurði hún englana, hvort hún mætti ekki fljúga — því að nú gat hún flogið eins og lítill svanur, nei — eins og lítill engill — hvort hún mætti ekki fljúga heim til mannanna og biðja þá alla að vera

góða menn, svo að þeir fengi að vera hjá guði þegar þeir dæi. — Dæi! Nei, nei, nei, nei, þeir dóu aldrei! — Og englunum þótti svo vænt um kærleika stúlkunnar, sem var svo ung og lítil, og gáfu henni miklu fleiri blóm en áður. — En blómin voru orð af vörum englanna. — Og á öll blómin stóð skrifað:

»*Guð er kærleikur!*«

— Já, guð var kærleikur, og þess vegna mátti hún fara. Að hugsa sér! Hún mátti þá áreiðanlega fara til mannanna til þess að birta þeim kærleika guðs! — Og svo fór hún, og englarnir fylgdu henni. Og nú varð henni ekkert kalt, hvernig sem hríðarnar dundu á, af því að hún var orðin engill, — og englunum verður aldrei

kalt í jarðnesku hríðunum. — Og svo hélt hún áfram, þangað til hún kom að bænum, sem henni var úthýst á.

»Til hans Þórðar á Hnjúki?« spurði Stína.

»Ekki, vitleysan í þér, barn«, sagði amma gamla.

»Já, og hvað so?« spurði Stína.

Já, svo komu hríðarnar aftur, blind-ösku-bylur, grenjandi moldviðri kring-um öll híbýli mannanna! Henni var ekki lífandi vitund kalt, en hún komst ekkert áfram fyrir moldviðrinu; það stóð eins og órjúfandi hamraveggur milli hennar og mannanna. Litla stúlk-an, sem var orðin engill, varð að fara aftur til guðs, af því að mennirnir vildu ekki taka á móti kærleika hans.

»Og nú er sagan búin, Stína litla«.

»Já, en heyrðu, amma, hvernig gat

hún komið að Hnjúki, — nei, þarna seg' ég til mannsins, sem úthýsti henni, eða til mannanna, — hvernig gat hún flogið?«

»O-o! Þetta er nú bara æfintýri, maður tekur si-sona til«.

»Tekur til! Er það þá ekki satt, að litla stúlkan — eða engillinn, var sendur frá guði til að hjálpa mönnunum?«

»Nei, ekki í raun og veru, en þetta er tekið si-sona, sagt sona sem merki upp á kærleika guðs, Stína litla!«

— Og blessað barnið trúði því, að guð hefði **ekki** sent engilinn — sem merki upp á kærleika sinn.

*H. C. Andersen.*

*J. Hallgrímsson.*

* * *

Det er det samme

18/3 '06

BEDSTEMOR var noget af en Tilhænger af Spiritismen, — men, hys, hys! dette maa hun sige, selv om ikke tænke, sagte, thi ellers bliver hele Familien rasende!

Hun tog Brillerne af.

»Hør, lille Anna!«

»Ja, Eventyret, Bedstemor, Eventyret!«

»Du har ikke hørt om »Perlekongen«? Nej, det har du vel ikke?«

»Perlekongen? Nej, nej! Hvad var det for en Perlekonge, Bedstemor?«

»Hvad det var for en Perlekonge? Jo, der var engang en Konge, som holdt saa umaadelig meget af fine Perler.

Han vilde bære sin Krone af Perler og han samlede og samlede, indtil det kom saa vidt, at kun én Perle manglede.

Ja, saadan en lødfager og yndefuld Perlekrone! Men det gik jo ikke an, at den sidste Perle manglede, nej, det gik slet ikke an. Og saa blev hele Hoffet sendt ud i den vide Verden, at søge efter Perlen.

Men da Hoffet kom hjem igen —havde det ingen Perle med. Det fandt ikke Perlen.

En Dag kom en gammel Mand til Kongen og spurgte, om han maatte se hans dejlige Perlekrone. Han havde hørt det var en stormærkelig Krone; — hver Perle skinnede som Solen, naar den stiger op om Morgenen i det lyseklare Sommervejr. Og han fik Lov til at se paa Kronen.

— »Men hvad er dog dette! Der mangler jo en Perle« og han pegede med Fingren paa den Plet, hvor Perlen manglede.

»Jeg har for Resten en Perle«, sa' Kongen, »men den er ikke saa smuk som de andre«.

»Men alle Perlerne maa skinne som Sol«, sa' den gamle.

— Der mangler kun én, og jeg véd, hvad det er for en Perle. Det er Sandhedsperlen, der **mangler** i din Krone. Først naar du har faaet den Perle, kan **hele** din Krone skinne som Sol«.

»Sandhedsperlen? Hvad? Hvor kan man finde den Perle?« spurgte Kongen.

»Paa Kærlighedens Havbund«, sa' den gamle.

»Ja, men hvem kan dykke der ned?« spurgte Kongen.

»Det maa du selv, hvis du vil have den Perle, thi faar nogen fat i den, kan han ikke give den til nogen anden«, sa' den gamle.

Og saa gik den gamle sin Vej.

— Men Kongen, ja han kunde jo ikke dykke ned, »fordi saa vilde jeg drikke noget Vand med«. — Og saa brugte han kun sin simple Perle.

— Her satte Bedstemor Brillerne paa. »Ja, det er akkurat det samme med Spiritismen«, nynnede hun for sig selv.

*H. C. Andersen.*



SIGNÝ gamla var ekki frá því, að samband við annan heim væri mögulegt, — trúði því meira að segja, að það ætti sér stað.

»En í guðs bænum! Að ég skuli hugsa þetta. Hvað ætli heimilisfólkið segði!«

Hún tók af sér gleraugun.

»Kondu, Anna litla!«

»Já, sagan, amma, þa' va' rétt!«

»Ég hefi ekki sagt þér söguna um »Perlu-kónginn. Eða hvað?«

»Perlu-kónginn! Hvur var það, amma?«

»Perlu-kóngurinn? — Það var einu sinni kóngur, sem þótti svo fjarska-mikið varið í fallegar perlur. Hann vildi eignast kórónu úr tómum perlum, og safnaði og safnaði, þangað til aðeins ein perla var ófengin.

Já, það var ekki skömm að þeirri kórónu! En ekki mátti seinustu perluna vanta, ekki með nokkru lifandi móti! — Og svo sendi kóngurinn alla hirðina eitthvað út í heim að leita að perlunni.

Og svo komu hirðmennirnir aftur heim í kóngsgarð, — en ekki með perluna. Þeir fundu hana ekki.

Einu sinni kom gamall maður heim í kóngsgarð, og bað um leyfi til að líta á fallegu kórónuna kóngsins. Hann hafði heyrt, það væri mesti dýrgripur, þessi kóróna; — hver einasta perla væri eins björt og sólin á heiðríkasta sumarmorgni. — Og svo bauð kóngurinn honum að skoða kórónuna.

— »En, — hvað' ósköp! Það vantar þarna eina perluna!« Og svo benti hann á blettinn, þar sem perluna vantaði.

— »Ég á nú annars eina perlu eftir«, sagði kóngurinn, »en það er bara eitt að: hún er svo ljót«.

»Já, en *allar* perlurnar verða að skína eins og sólin sjálf«, sagði gamli maðurinn. »Það vantar bara eina perlu, og ég veit, hver hún er. **Það vantar** *sannleiksperluna í kórónuna þína*. Þegar sú perla er fengin, þá fyrst getur **öll** kórónan skinið eins og sólin sjálf«.

»Sannleiksperluna? Ha? — En hvar er hennar að leita?« spurði kóngurinn.

»Í *hyldýpi kærleikans*«, sagði gamli maðurinn.

»Já, — en hverjum er fært að kafa svo djúpt?« spurði kóngurinn.

»Það verður þú sjálfur að gera, ef þú vilt eignast perluna. Því hver sem einu sinni eignast hana, fargar henni aldrei«, sagði gamli maðurinn; og gekk síðan leiðar sinnar.

En kóngurinn, — já, ekki gat hann farið að kafa svona djúpt, »ég myndi fá að súpa á heldur óþægilega«, sagði hann. — Og svo mátti hann til að notast við ljótu perluna sína. —

Nú setti Signý gamla upp gleraugun.

»Já. — Það er alveg eins um andasambandið«, tautaði hún lágt fyrir munni sér.

*J. Hallgrímsson* þýddi $^{28}/_{3}$ '06.

* * *

NÚ skulu þér menn heyra, fyrir ykkar góðar tilgørningar, þat es vér köllum æfintýr.

Eigi es þat míns, svá sem margra es, þeira es æfintýr rita, at þeir byrja svá fyrst of síns máls, at einu hverju sinni hafi sjá atburðr orðit, es getr um æfintýrit.

Þat veit trúa mín, at sjá atburðr gerisk nú, es getr um þetta æfintýr.

Sú es kona dróttning yfir hugum margra manna, es Heimska nefnisk, — ok svá es hón frjáls, at hón biðr menn vera úháða allri skynsemd.

Heimska dróttning stóð úti fyri karldurum ok bauð til stufu-þegnum sínum.

Hón vas þann veg búin, at hón hafði kórónu mikla á höfði, — ok var svá glæst, sem á sól sæi. En eigi fell betr niðr umgørðin, en at undan sásk reikin, — ok allr vas búningr hennar fagrligr.

Dróttning settisk í öndugi, en gestum sínum skipaði hón, tveim et næsta sér, en öðrum útar frá, ok þó flestum á enn œðra bekk.

Heimska dróttning lét upp skjóta skutlum fyri gesti sína, — ok settusk síðan við allir gestirnir. En es allir váru mettir gestirnir, þá vildu þat flestir þeira, at eigi væri svá spjallat veizlusiðum, »at eigi hafim vér ölteiti nakkvara«.

»Hvat tali þér nú«, spurði dróttning, »eðr hví minnisk þér eigi þess máls, es nú es tíðræddast um á váru landi?« — »Enga trú höfu vér þess, at andar

manna dáinna, — ok þeira es Valhöll byggja, — leiti at borði einu litlu at sambandi við oss, es þenna heim byggjum — ok hyrfði þar á, at svá mætti gagn af hljótask«.

»Enga trú höfðu þeir þess«, mælti dróttning, »es hina fornu trú höfðu, at gagn af hlytisk enum kristna átrúnaði, — ok vas þó eigi minnr um rœtt, en hjá þeim, es kristnir váru«.

Þá stóðu upp menn nakkvarir af enum úœðra bekk, ok spurðu, ef þat mætti eigi verða gaman manna, »at vér reyndim nakkvat at sambandi við borðandana, ok sæim svá mátt þeira«. Gengu síðan at stœrsta matborði Heimskunnar. Biðu svá hríð nökkura, ok lyftisk eigi borðit; gekk dróttning at, ok lyftisk eigi at heldr.

»Hvat es nú, es eigi koma »andar« í borðit?«

— Heimska dróttning gekk nær.

»Hvárt vas svá, at nú lyftisk borðit?«

»Þat veit ek aldrigi«, svaraði dróttning.

Ok þat vissi aldrigi neinn, ef lyftisk matborð Heimskunnar.

*H. C. Andersen.*

*J. Hallgrímsson.* *Snorri Sturluson.*

* * *

ÞARNA frammi í dalnum, þar sem sólin skín allan daginn! Þarna, sem fossinn stiklar niður bergstallana, fremst í gljúfrunum, og stráir úðageislunum á kolsvartan hamravegginn, — eins og þeir eigi að vekja hann af 4000 ára svefni! Og þarna fyrir neðan hamrana, niðri á jöfnunni, þar sem fossinn sendir frá sér smálæki í allar áttir, í hvert lautardrag, sem nærri er! Þarna, sem þeir hoppa léttir og kátir stein af steini, eins og það sé þeirra mesta yndi, að stríða steinunum allan daginn, — en ekki nema á daginn, — því á nóttunni kyssir hver dropi hvern stein, sem

verður á vegi hans, — því þá sér enginn til! Þarna fremst í gljúfrunum, sem fossinn er, og þarna neðar í dalnum, þar sem fjöllin víkja meir til hliðanna, eins og þau ætli að breiða faðminn á móti sléttunni, af því að hún er frjáls! Þarna, sem skógurinn daglega mænir upp eftir fjallinu og árlega vex upp eftir því, — teygir sig upp hlíðarnar og sendir veikustu hríslurnar á undan, svo að ekki sé hundrað í hættunni, þó einhver mótspyrna mæti þeim. Þarna, sem fjallsvalinn kemur ofan frá brúninni og hvíslar undurlágt, svo að enginn heyri nema skógurinn, hve víðsýnið sé fagurt af fjallsegginni, — og við það örfast skógurinn og herðir enn meir á hríslunum. — Þarna, sem örninn kemur ofan frá hömrunum, bregður sér sem allra snöggvast niður í skóginn, og segist —

til að stríða honum — hafa heyrt alt samtalið! Þarna, sem döggin vakir, þegar blómin sofa, — langar til að sofna, en má það ekki, því að hún á að vaka yfir blómunum, — og svo vakir hún! Þarna, við fjallsræturnar, þar sem smárinn vaknar og sér morguninn bíða dreymandi efst uppi á fjallatindunum, — og hann kemur ekki niður í dalinn fyr en draumarnir rætast! — Þarna, sem englarnir vildu helzt vera, ef þeir vildu nokkursstaðar vera á jarðríki! Þarna, sem sólin skín allan daginn, þar búa mennirnir í — jarðhúsum!

---

Ljósahvoll var eini bústaðurinn í dalnum, sem naut í fullum mæli allrar fegurðarinnar þar og útsýnisins. Hann stóð á háum hól í miðjum dalnum.

Rétt fyrir neðan túnið rann áin. Hún dró nafn af bænum og hét Ljósahvolsá.

Langt upp með ánni lágu rennsléttar grundir, og þær tóku ekki enda fyr en uppi í stórum hvammi, upp við Ljósadalsfoss. Þaðan rann áin í einlægum bugðum niður dalinn.

Það var ekki að furða, þó að mönnum þætti gott að koma að Ljósahvoli. Landslagið fegra en víðast hvar annarsstaðar á landinu, og útsjónin svona, — og sólskin þar allan daginn. Og svo húsbændurnir. Í rauninni skein sólin ekki skærar á Ljósahvol sjálfan en í hugi allra, sem þar áttu heima. Og Ljósahvolsá rann ekki friðsamlegar niður dalinn, ofan frá fossinum, kvíslaðist ekki gætilegar beggja megin klettanna, og veik ekki ánægjulegar úr vegi fyrir þeim, en heimilisfólkið á Ljósahvoli

gerði hvert fyrir öðru. Og fjöllin í Ljósadal voru engu ánægðari yfir sólskininu en fólkið á Ljósahvoli. Andlega útsýnið á Ljósahvoli var yfir höfuð engu minna en sjálft útsýnið frá bænum, andlegi sjóndeildarhringurinn engu þrengri.

Menn mundu ekki eftir, að dalurinn hefði nokkurn tíma litið öðruvísi út, mundu ekki eftir, að útsjónin hefði ekki alt af verið jafnfögur, fjöllin hefðu ekki alt af verið jafntignarleg, hvort sem sólskin var eða regn — ef til vill enn tignarlegri í regni, nei, eiginlega voru þau lang-tignarlegust, þegar mikið hafði rignt og sólin skein á þau. Já, ef þau voru þá ekki tignarleg, dökkblá í sólskininu! Menn mundu ekki eftir, að sólin hefði nokkru sinni skinið skærar en þá Og hún hafði oft skinið svo

skært — fjarska-oft; það hafði nefnilega oft komið rigning í Ljósadal.

Hún hafði skinið svona skært í Ljósadal sjálfsagt öld eftir öld og áreiðanlega ár eftir ár og mörgum sinnum á ári.

En andlegi sjóndeildarhringurinn á Ljósahvoli hafði ekki alt af verið jafnvíður, sú útsjón ekki alt af jafn-fögur. Nei, síður en svo. Það hafði lengst af legið sama svæfandi þokan, sömu lamandi deyfðar-fjötrarnir yfir hugum allra á Ljósahvoli eins og allra annara dalbúa. Og það var meira að segja ekki nema eitt ár síðan útsýnið fór að breytast, síðan ofurlítið fór að rýmka um sjóndeildarhringinn.

Hjónin á Ljósahvoli höfðu átt þrjú börn, — eina dóttur, sem Þórdís hét, og tvo syni, og annan þeirra höfðu þau

mist, — hann hafði dáið um vorið árinu áður.

Dauði þessa sonar hafði í rauninni gerbreytt foreldrum hans og systkinum.

Móðir hans hafði vakað yfir honum í legunni. Dag eftir dag og nótt eftir nótt gerði hún ekkert annað en að annast hann.

Það er sagt um ástina, að hún sé því heitari, því meira sem henni sé fórnað, — og að minsta kosti á það ekki sízt við um móðurástina. — Systir hans hafði ávalt verið mjög þunglynd, og sjúkdómur bróðurins jók enn meir á þunglyndi hennar.

Henni fanst sólargeislarnir oftast vekja sig heldur snemma á morgnana; hún var alt af of þreytt til að fara svo snemma á fætur.

Einn morgun um vorið vaknaði hún

og leit út um gluggann. Sólin skein ekki nú, eins og vant var, inn í herbergið hennar. Geislarnir höfðu orðið of seinir. Þeir voru að reyna að vekja steinana frammi í dalnum með hressandi yl, — en tókst það ekki! — Hún leit aftur út um gluggann — leit yfir dalinn, — en hvað nú var bjart uppi í Ljósahvammi, — upp á fjöllin. — Jú, fjöllin voru vöknuð, — en ekki farin að klæða sig. — Og svo fóru þau að klæða sig.

»Hvar er sokkabandið mitt, mamma?« spurði Bæjarfjallið.

»Hérna!« sagði Sólin, — hún spenti sokkabandinu um fótinn á því, glitofnu geislabandi.

Þórdísi langaði á fætur. Hún vildi ekki sjá meira af náttúrunni í gegnum gler. — Og svo klæddi hún sig.

Hún gekk upp með ánni, upp í Ljósahvamm, sleit upp nokkrar týsfjólur við og við á leiðinni, lyktaði af þeim, fleygði þeim burt og sleit upp aðrar nýjar, þangað til hún kom í hvamminn. Þar settist hún niður. Nei, hún gat ekki legið kyr í þessu blessaða veðri. Svo gekk hún að fossinum. Í stað þess, að niðurinn var svæfandi í hvamminum, var hann hressandi og lífgandi á gilbarminum.

Hún leit allra-snöggvast í kringum sig, niður í gilið, niður eftir dalnum, heim að bænum, og aftur niður í gilið. Hvað fossinn var tignarlegur núna, langtignarlegastur af öllu í dalnum! Fossúðinn huldi næstum því hamraveigginn hinummegin, alveg eins og þunglyndisúðinn huldi hennar eigin hugsanir. Svo féll steinn niður af gilbarminum.

Úðamökkurinn leystist sundur, og þarna sást í — kolsvartan hamravegginn! — En steininn sá hún ekki. Hann var kominn niður í hringiðu fossins.

Skyldi þunglyndismökkurinn hennar leysast svona sundur? — Og skyldi það verða steinn, sem rýfur hann? — Hugsanir hennar urðu enn þunglyndislegri, enn óljósari. Í þessu indæla góðviðri, á þessum undur-bjarta vormorgni gat hún ekki um annað hugsað en kvöld, um vorkvöld eins og hún mundi það fegurst, að sólin væri að setjast, væri að kveðja hana, og þegar að því kæmi, að hún settist, þá hyrfi hún eins fljótt sjónum hennar og steinninn áðan. En svo tók hún eftir því, að það var ekkert líkt með sólina og steininn. Hún hafði ekki séð steininn nema í því hann

rauf úðann. Og svo hafði steinninn hrapað! En sólin hrapaði ekki!

Hún stóð upp, gekk beint niður með fossinum, og raulaði þessar vísur:

Fögur hnígur langdegis-sólin í sæ,
svefni bregður döggin í grátmildum blæ,
vornæturdöggin, og vekur sofna rós;
vorsólin hnigin, og hvergi sést ljós;
því biður hún blómið að vaka.

Ó, vaktu, góða rós, svo ég vaki ekki' ein;
veiztu, að alla fuglana dreymir á grein?
Vorblærinn sefur, og veit ekki af mér;
vaktu, góða rós, ég skal sofa með þér
í staðinn um alla' okkar æfi.

„Hvað dreymir alla fuglana, döggin mín góð?“
„Þá dreymir að ég sofni við straumsins vögguljóð.
Nú sofa þeir og vita' ekki, hve sorgin liggur þungt
á syrgjandans hjarta, — því það er svo ungt,
en heimurinn, — hann er svo gamall“.

Svo fellur vorsins dögg í faðm hennar hljótt,
og fleiri vorsins döggvar, þá kyrðsælu nótt;

og ótal vorsins döggvar vökva fugla-grein.
Þá vakna þeir allir. Nei, sko! Þarna er ein
dögg á hverju' einasta auga.

»Mér finst ég vera eins og döggin. Fuglana dreymir um, að hún sofi, þegar hún er að leita að einhverjum til að vaka með sér«, sagði Þórdís.

— — — — — — — — —

Þegar hún kom heim, var bróðir hennar dáinn.

— — — — — — — — —

— — — — — — — — —

En nú var sólskin í hugum allra á Ljósahvoli. Svona hafði þá heimilið breyzt á einu ári.

Og nýir straumar frá höfuðborginni höfðu borið þessar breytingar á bárum

sínum upp í Ljósadal. En þær höfðu aðeins komið að Ljósahvoli.

Foreldrarnir voru fyrst framan af óhuggandi út af missi sonar síns. Þórdísi hafði áður fundist það einhver svöllun, að bjóða sorginni byrginn. Hana hafði langað til að kafa sorgardjúpið til botns, — og koma aldrei upp framar.

En breytingin hafði lagt brú yfir djúpið, — og það var varla hætt við, að Þórdís mundi hrökkva fram af.

En mikið var talað um þetta í Ljósadal, og öllum fórust orð í sömu áttina. Öllum kom saman um málið, og alstaðar vakti það mótspyrnu, eins og allur sannleikur gerir, því meiri, því meira sem um hann er vert.

»Ekki nema það þó! Hvað mennirnir geta verið vitlausir! Eins og verur frá öðrum heimi séu að reyna til að kom-

ast í samband við mennina. »Hnu! Ekki nema það þó! É'ld maður hafi sína trú og deyi upp á það, held é'. Ja, sín er nú kvur ekki sinn vittleysan!«

Svona töluðu húsfreyjurnar.

En sóknarpresturinn taldi það óguðlegt. »Ekki skaltu leita frétta af framliðnum, segir sú guðlega innblásna bók, mínir elskanlegir. Og soleiðis ber okkur aumum mannkindum að breyta«.

Og allir karlmenn í sókninni sögðu það sama, því þetta hafði presturinn sagt.

En faðirinn gat ómögulega skilið, hvers vegna ekki mætti, ef unt væri, fá sönnun fyrir því, að alt væri ekki búið, þegar þessu lífi lyki. — Og móðirin skildi enn síður, hver hefði rétt, eða réttara sagt, hver hefði leyfi til að fara óvirðingarorðum um það, sem dýr-

mætast væri að fá sannað. Hún gat ekki skilið, hvers vegna hún mætti ekki óáreitt reyna að komast eftir, hvernig barninu sínu, sem hún hafði elskað eins heitt og nokkur móðir getur elskað barnið sitt — fórnað því allri þeirri ást, sem hún átti, — hvers vegna hún mætti ekki vita, hvernig því liði.

Eða var nokkuð líklegra en það, að drengurinn hennar, sem hafði þótt vænst um hana af öllum á jörðunni, mundi þrá það heitast, langa lang-mest til þess af öllu, að láta hana vita, að fegurstu orðin, sem hún hafði sagt honum, þegar hún talaði við hann um kærleika guðs, væru sannleikur? Og fyrst hann þráði þetta svona heitt, hvers vegna mátti hann það ekki fyrir mönnum? Hann hafði þó ekkert unnið til saka.

Nei, þau gátu ekki með nokkru lifandi móti skilið það.

Dag eftir dag höfðu tilraunirnar orðið árangurslausar. En á þriðja mánuði höfðu þær kastað þessu ljósi yfir heimilið, sem nú var yfir því, rýmkað svo um andlega útsýnið, víkkað svo sjóndeildarhringinn, að hvergi bar skugga á.

— — — — — — — — —

Og þegar sólin skín á Ljósahvoli, — og sjóndeildarhringurinn víkkar alt af meir og meir, þá legst úðaþoka frammi í fossgilinu yfir kolsvartan hamravegginn, eins og hún ætli að svæfa hann 4000 ára svefni.

En hinir dalbúarnir þurfa ekki að tefja sig á því, að skoða útsjónina á Ljósahvoli, — þeir láta sér nægja að

lítilsvirða hana, — því þarna frammi í dalnum, þar sem sólin skín allan daginn, búa mennirnir í — jarðhúsum.

*J. Hallgrímsson.*

* * *

Ekki nema einu sinni?

1/4 '06

EINU sinni var drengur. Engum þótti vænt um hann, nema þeim, sem vissu það jafnvel og að sólin er björt, að hann var góður drengur. En drengnum þótti það ekki nóg. Svo bættist einn vinur í hópinn. Hann mætti honum fyrst úti í skógi, þar sem hann reikaði allslaus og einmana.

»Hvað heitir þú?«

»Ég heiti Kærleikur«.

»En þú?

»Sannleikur«. — Það var drengurinn, sem sagt var frá áðan.

Svo urðu þeir samferða. En stundum hljóp Kærleikur langt á undan, —

til þess að ryðja brautina. Þess vegna gistu þeir ekki alt af á sama stað.

Einu sinni kom Sannleikur að stórri höll úti í skógi.

»Viljið þið lofa mér að vera?« spurði hann. »Mér er svo ósköp kalt. En ekki veit ég, hvort ég get launað ykkur með öðru en því, að áminna ykkur um, að vera gott fólk; því það eruð þið ekki«.

En — fólkið úthýsti honum.

Svo liðu mörg ár. Alt af kom hann heim á einhvern bæ á kvöldin, þegar dimt var orðið, — og alt af var honum úthýst. Hann átti þar engan vin, nema Kærleik, en Kærleikur átti ekkert hús þarna.

En Sannleikur varð samt ekki úti, því að Kærleiknr hlýjaði honum alt af, þegar honum var kalt.

---

Mörgum árum síðar kom hann að höllinni í skóginum. Þá var hann orðinn konungur.

Nei, — nú úthýsti enginn honum. Það datt engum í lifandi hug. Síður en svo: sjálfum konunginum!

En meðan hann var munaðarleysingi og öllum ókunnugur, þá var hægðarleikur að fara með hann hvernig sem hver vildi; þá var enginn fyrirhöfn að leggjast á hann, — ekki nema sjálfsagt að vera ekki að hafa þenna förudreng í húsum sínum!

En, — nú var hann orðinn konungur. — **Og allur sannleikur verður einhvern tíma konungur.**

*H. C. Andersen.*

*J. Hallgrímsson.*

* * *

# EFTIRMÁLI.

Það er kunnugt hér í bænum frá síðustu Fjölnisskemtun, meðal annars, að æfintýri þau, er hér birtast, eru eignuð ójarðneskum höfundum, þeim, er undir þeim standa. Unglingspiltur, 17 vetra, hefir ritað þau ósjálfrátt, þá daga, er til eru nefndir á titilblöðunum. Hann heitir Guðmundur Jónsson, frá Bakka í Arnarfirði, og er skólapiltur í 2. bekk. Hann hefir ekkert vitað, hvað hann var að skrifa, fyr en á eftir, að hann eða aðrir hafa lesið það; stundum hefir hann þó lesið það sjálfur jafnóðum úr pennanum (blýantinum). Einu sinni hefir verið bundið fyrir augun á honum og hann þó skrifað jafn-viðstöðulaust, glögt og línurétt.

Ekki er þetta nýlunda í heiminum, þótt svo sé hér á landi.

Charles Dickens, hið mikla sagnaskáld Breta, dó (1870) frá hálfsamdri skáldsögu, Edwin Drood. Fyrir nokkrum árum reit óbreyttur verkmaður í

New York og ómentaður ósjálfrátt síðari hluta sögunnar, svo líkt Ch. Dickens, anda hans og sérkennilegu orðfæri, að heimsins mestu fagurfræðingar hafa gefist upp við að greina þar í milli.

Enskur kennimaður, Stainton Moses, dáinn fyrir 14—16 árum, samdi ósjálfrátt mörg rit og merkileg, eftir forsögn framliðinna merkismanna, að hann hugði, mest guðfræðilegs efnis. Spirit Teachings heitir ein bókin. Henni hefir verið snarað á dönsku (Fra en bedre Verden, Kria 1893).

William T. Stead í Lundúnum, hinn heimsfrægi blaðamaður og mikli mannvinur, gaf út fyrir 8—9 árum bók, er nefnist Letters from Julia (Bréf frá Júlíu) og hann hafði ritað ósjálfrátt á nokkrum árum.

Kona ein í New York, er fengist hafði töluvert við að semja bækur, Mrs. Underwood, vissi eigi fyr til einhverju sinni en hún tók til að rita ósjálfrátt, um alt annað en þá hafði hún fyrir stafni, sumt ofvaxið þekkingu hennar, en sumt fyrir neðan hana, sem kallað er.

Eftir Heinrich Heine, stórskáldið þýzka († 1856), hafa komið fram kvæði nýlega með sama hætti, og honum alllík.

Líkt hefir við borið um H. C. Andersen fyrir skemstu, suður á Þýzkalandi, — rituð ósjálfrátt æfintýri í hans anda, mjög auðþektum.

---

Eg hygg, að óhlutdrægir lesendur og sæmilega skynbærir á æfintýraskáldskap muni kannast við skáldlegt gildi þessara æfintýra, hvaðan sem þau eru runnin. Um það er og hverjum heimilt að halda það sem hann vill. Sjálfir fullyrðum vér Tilraunafélagsmenn (um dularfull fyrirbrigði) ekkert um það. Nöfnin, sem undir þeim standa, eru þar sett eftir hinu ósjálfráða handriti. Og fylgdi sú skýring, að hugsanirnar í 4 æfintýrunum sé eingöngu eða aðallega eftir H. C. Andersen, en búningurinn íslenzki eftir Jónas Hallgrímsson, og Snorra Sturluson á einu þeirra. Eitt æfintýrið, „Í — jarðhúsum“, er eignað Jónasi Hallgrímssyni einum, efni og búningur. Bjarni Thorarensen á erindið framan við („Sú löngun“ o. s. frv.). Eg segi, að sjálfir fullyrðum vér ekkert um uppruna þessara æfintýra. En hvað er hægt að fullyrða? Ekki neitt?

En hvað er hægt að gizka á?

1. Að þau séu runnin frá G. J. sjálfum, þ. e. aðalmeðvitund hans.

Vonandi þarf ekki lengi að brjóta heilann um það. Eru dæmi til þess um nokkurn mann í heiminum, að hann vilji ekki kannast við þá snild, sem hann er handviss um, að enginn annar eigi? Og þessi æfintýri bera það ekki með sér, að sá maður hafi skrifað þau, sem svo er. — En öllum sem nokkuð þekkja G. J., ber saman um, að hann sé mjög góður og vandaður piltur. Og hann er líka stórgáfaður piltur; því neitar enginn. Og enda hlyti maður þá að dást að hinni óvenjumiklu skáldgáfu þessa unga manns.

2. Sú skoðun hefir komið fram, að G. J. hafi verið dáleiddur til að skrifa æfintýrin. Oss er alveg ókunnugt um, hvernig það mætti takast. Auk þess eru auðvitað næg vitni að því, að þetta er aðeins sprottið af þekkingarleysi eða einstaklega óvanalegri góðgirni.

3. Þá er það, sem mörgum mun þykja líklegast: að G. J. eigi þetta alt sjálfur, þann veg, að það sé runnið frá undirvitund hans, svo nefndri.

Af þessu þrennu, sem nefnt hefir verið, get eg ábyrgst — og allir þeir, sem þekkja til málsins, — að tvent á sér ekki stað: að hann hefir hvorki skrifað æfintýrin sjálfur, né verið dáleiddur til þess.

Þriðja atriðið (um undirvitundina) væri þá eini vegurinn til að skýra það, — hverju sem menn eru þá nær! En sú undirvitund hlyti þá að vera þroskaðri en nokkurs annars manns í heimi, jafngamals. — Og sannarlega væri eyðandi tíma, — fyrir árlegar svívirðingar að launum, — til að rannsaka, hvort jafnmikið geti búið í nokkrum manni án þess hann viti af því. Þegar svona langt er komið, — þá fer mönnum ekki að þykja það öllu líklegra, en að hér sé um samband að tefla við eitthvað, sem er fyrir utan manninn; — en vér fullyrðum ekkert um það. —

Þessi æfintýri hafa öll verið rituð á alveg óvenjulega stuttum tíma. T. d. hið fyrsta á $2^1/_2$ klukkustund og hið síðasta á 7 mínútum. — Og atvikin í sambandi við skrift sumra þeirra sýna fyllilega, að þau hafa ekki verið hugsuð fyr en rétt áður en þau voru skrásett. Ætli mörg æfintýraskáld í heiminum treystu sér til þess að rita jafngott og álíka langt æfintýri og „Kærleiks-

merkið“ á $2^1/_2$ kl.stund? Eða æfintýrið „Í — jarðhúsum“ á jafnlöngum tíma að tiltölu, eða lítið lengri; nema hvergi staðar (t. d. í því fyrra)? Hvað þá ef hann væri 17 vetra.

En nákvæmlega stendur oss á sama um það, hvað fólk heldur um, hvaðan æfintýrin séu runnin. Sjálf bera þau það með sér, að stórskáld hefir um þau fjallað. Það dylst þó engum.

Eg tek það enn fram, að hvorki vér — né G. J. sjálfur — fullyrðum neitt um, hvaðan þessi æfintýri eru runnin. En séu þau komin frá honum sjálfum (G. J., þ. e. undirvitund hans; um annað er ekki að tala), þá — heill þér, Ísland, og seytján vetra skáldkonungi þínum!

Rvík 2. apríl 1906.

*Björn Jónsson.*





Frá Ísafoldarprentsmiðju birtist á prenti í fyrra:

**Samband**

við

**framliðna menn**

Eftir

**Einar Hjörleifsson**

Verð: 30 aur.

Nú er von á þaðan í sumar riti, sem heitir:

**Bréf frà Júlíu**

(Pistlar um lífið hinummegin grafar)

Rituðu ósjálfrátt af

**William T. Stead**

Íslenzkað hefir Einar Hjörleifsson

---

**Misprentað** bls. 29 [7]: hina f. ena.

